# Hjálpar-medöl
til ad koma
# Drucknudum til lífs aptur.

Beitistodum, 1817.
Prentud af Faktóri og Bókþrykkjara Schagfjord.

1.) Svo fljótt sá drucknadi er úr vatninu tekinn, skal strax losa um föt hans, einkum hálsklút og sockabönd, hneppa upp peisubol og buxnastreng, eda ödru, er þreyngja kann ad brjósti hans og maga; þarepter se munnur hans og nasir vandlega hreinsadar frá slími því eda óhreinindum, er þarf mætti finnast; ad því búnu gángi ad honum sterkur madur ad baka til, spenni örmum sínum fram fyri maga hans, lypti honum upp og láti efri part líkhamans hánga nockud fram og nidur á vid, sídan þrýsti hann med örmunum innyflum ens drucknada uppávid til brjósts og rifjanna, og med því móti ad hoßa dálítid þar med, leitast vid ad fá vatn þad upp, er

fylla

fylla kyñi magañ og andrúms-gángiñ. Þetta fyrsta skedur venjulega strax þar vid, er sá drucknadi er úr sjó tekinn; en þar fólk sjaldan drucknar hér á landi nema í slæmu vedri og frosti, má ecki hafa lánga dvøl úti med hinn sjúka.

2.) Þarnærst sé hinn drucknadi færdur í hús, þannig: ad líkami hans sé látinn liggja aflángur og rettur, þó svo, ad haldid sé undir høfud hans lítid eitt, ad ecki hángi þad nidur, og skal andlitid látid snúa til annarar-hvorrar sídu. Flutníngur þessi skedur best á lángri fjøl, eda á 3ur eda 4um samanbundnum árum. Ecki skal hús þad hann í flytst vera sárkaldt, og ecki heldur heitt, en mest rídur á ad heimflutníngur hans sé gjørdur á ofansagdann hátt.

3.) Þessu nærst er hann njøg varlega úr fotum færdur þañig: ad þad sem ofþraungt kynni vera, skerist heldur í sundur, en bísad sé lengi vid ad losa þad; á medan á því stendur, skal og sjá til ad ecki hángi høfudid nidur, til hlidar, eda apturábak. Nú skal tekin dýna eda sæng, lagd á bord eda stóra kistu, hérá leggist hann nú, ádur vandlega þerradur

ur, med høfudid nockud hærra og á hrygginñ, og sé allur líkami hans, ad andlitinu undanteknu, vandlega þakinn þurrum rúmfötum.

4.) Sé munnur hans, qverkar og nasir ennþá vandlega hreinsad med njardar-vetti, ef til er ad fá, annars med mjúkri lérepts-ryu; hvørt sem heldur brúkad er, skal þad ádur bleytast í vatni.

5.) Sjest ad þeßu búnu eckert merki til andardráttar, þá sé tekin laung pípa, annadtveggja samansett af álptarfjødrum, eda beinpípa; annar endi hennar sé látinn í munn honum, þar eptir fyllir madur vel brjóst sitt af vindi, snogglega dregnum, grípur undireins fyrir nasir hans, og lokar munninum utanum pípuna, samt lætur einn annann þrýsta barkanum lítid eitt ad-vælindinu eda tilbaka, þetta allt til þeß, ad vindur sá, er nú skal blásinn í lúngu hans, ecki sari út um nasir eda nidur í magann, heldur inn í lúngun. Eptir ad vindur er innblásinn, skal einn af medhjálpendum þrýsta, med flötum høndum, á brjóst hans og maga, en vitin standi opin á medan til þeß ad þad ádur innblásna lopt geti sem fyrst komist út aptur. Þegar nú innblástur

þeßi

Þeßi hefir þannig skéd strax hvørt eptir ann-
ann 10 eda 12sinnum, skal halda uppi med
hann nockur augnablik, hreinsa á ný munn
og q-erkar med njardarvettinum, og halda ein-
hvørju sterklyktandi, ef til er, fyri vitum hans,
skal svo taka til aptur med innblástrinn á
ofantjedann hátt, og hann medhondlast þañig,
uns hann annadhvørt af sjálfs krapti fer ad
anda, ellegar oll lífsvon er úti. Ad ferja viß-
ar reglur fyri tíma þeim, er tilraun þeßi skal
vara, er ecki gjørlegt, þó mun ecki veita af 3
eda 4 kluckutímum.

6.) A medan á innblæstrinum stendur,
skal einn af medhjálpendum leit-st vid ad upp-
verma hinn drucknada; skédur þad þanninn:
ad tekinn er sandur, hitadur í potti, ad mad-
ur þoli vel ad halda í honum hendinni, af
honum takist vid og vid lúkur fullar og legg-
ist í hjartagrófina — grófina fyrir bríngsbol-
um — sé ecki sand ad fá, má vel brúká smá-
mulid sallt eda rúg.

7.) Einnig skal, á medan þeßi rád eru
brúkud, opt lypta ormum ens drucknada nock-
ud upp, strjúka þá á þá sidna, er snýr ad
kroppinum, med volgri hendi hóglega, nedan-
frá

frá og uppeptir ad handkrika, allt til þess ad auka blódsins rás ad hjartanu. Somuleidis lyptist nedri útlimir hans upp, og strjúkist á innri sidu nedanfrá uppad til náranna.

8.) Paradauki skal honum, ef verdur, setjast stólpípa af handfylli sallts og 1 pela af heitu vatni.

9.) Jafnframt þessu skal hinn andvana gníinn, med stórgérdum striga eda stýfum bursta, um yljarnar og æfarstadar um limina.

10.) Rakni hann vid af medolum þessum, skal hann færast í góda sæng, og gefast dálltid Vîntár, Hoffmanns-dropar eda nýspýst volg Misa. Verdi nú nád til Læknirs, skal hans ráda leita um frekari medhondlun en sé þess ecki kostur, má merkja eptirfylgjandi pósta:

a) Sé svo, ad hinn drucknadi, í því hann fer ad rakna vid, sé bláleitur og þrútinn í andliti, skal honum óhætt opna æd á handleggi, og sé látid blæda eptir kringumstædum, mannsins eldri eda yngri dogum, blódsins megni, líkamans sterkara eda óhraustara heilsufari, sem einkum

um eptir þvi, hvørt blódid ákaft sækir ad hofdinu, er merkiſt bædi af blåma andlitsins, ſem og útrútnun þeirra digru hálsæda.

b) Ad þegar hinn ſiúki er fullkomlega vidraknadur, og hefir fengid túngunnar brúkun, plaga ſem optaſt ad koma ad honum velgja, klýa og ſmáuppkoſt, hóſti og ſárindi, já, jafnvel blód-uppgángur og haſtur verkur fyrir brjóſtinu. Séu nú einúngis klýa, velgja og uppkoſt tilſtadar, hinn ſiúki ſé ecki raudleitur í andliti eda blódmikill, mætti vel gefa honum uppſølu medal; en ſé andlitid þarámóti raudt eda blátt, ædarnar á hálsinum útrútnadar, verkir og blóduppgángur frá brjóſti, má ecki uppſølu medalid brúkaſt, heldur ſkal enum ſiúka taka blód, og þad optar enn einuſinni, eptir kríngumſtædum og mætti þeß ſiúka; honum ſkal gefa nýyſta Miſu, Hafra- eda Bygg-ſeydi, og vanti þetta, þá volgt, þunnt Mjólkurbland; honum ſetjiſt Stólpípa eptir þørfum, til vidurhalds gódum hægdum, og hann haldi ſér lengi rólegum.

c) Þad

c) Þad hendir opt, ad ávöxtur drucknunar í vatni eda sió, verdur brióstmædi og hósti; móti því veit eg ecki betra, enn ydugléga brúkun Fjallagrasa-seydis og Grautar, Sióshita og góda uppápossun, ad verda aldrei votur um fætur.

---

Þetta ofanskrifada er sumpart tekid úr Ritum þeirrar konúnglegu Kommissionar, til drucknadra hiálpar í Kaupmannahøfn, og lagad eptir kríngumstædum hér í landi — sumpart af siálfum mér samantekid — Eins og þad gledja skyldi mig af hiarta, gæti einhverr góds notid héraf, eins vil eg hérmed kreptugléga áminna Landa mína, ad láta sér vel og mannkiærlega fara vid drucknada brædur sína, med því ad nema vel ofanskrifud ráð, er mørgum þúsundum erlendis hiálpad hafa, og viliuglega liá bródurhønd sína til þeirra réttu brúkunar — ad aldrei megi þau dæmi finnast,

ad

ad sjódrucknadir séu óhæfir í húsum ydar, því sídur hjálpar-hendur áleggjandi, hvad svo mjeg er ólíkt lunderni ydar í ødru, sem beinlínis óguðlegt.

Nesi vid Seltjørn, þann 13da Nóvembr. 1816.

Ð. Hjaltalín.